


IV. Winnipeg, Man. Nr. 9.

# JESUS KRISTUR
## sem andans maður.

Þegar vér köllum Jesúm Krist andans mann, þá felst í því, að vér teljum hann ekki guð heldur mann, en um leið einn af heimsins mestu og bestu mönnum. Menn hafa um umliðnar aldir gert manni þessum stórkostlega rangt til með því, að hefja hann upp í guðatölu, því sem guð er hann ófullkominn. Hann deyr, hann þjáist, hann verður reiður, hann hefir ýmsar hugmyndir sem vér nú sjáum að eru rangar; hann t. d. trúir bókstaflega sögunum um Lot og konu hans, um Sódóma og Gomorrha, um Jónas og hvalinn. Þetta er að gera honum rangt til, að kalla hann guð með svo ófullkomnum hugmyndum, því það er betra að hafa engan guð heldur en ófullkominn guð. En sem maður kemur hann fyrst fram í ágæti sínu. Þá sést hve mikla andans yfirburði hann hefir haft, þar sem hann er uppalinn meðal fáfróðra manna, en hefir þó aðra eins ágæta sálarhæfileika eins og hann hafði. Þá kemur fyrst fram hans siðferðislegi kraftur, sálarþrek og yfirgnæfandi kærleikur. Hvað var það af guði, að standa stöðugt við sannleikann? Það var svo sem sjálfsagt. Hvað var það af guði að þola mótgerðir og ofsóknir? Hvað var það af guði, að auðsýna öllum kærleika, sem hann náði til? En þegar Kristur er skoðaður sem maður, með mannlegum tilfinningum, mannlegum breiskleika og ófullkomnun, þá sjáum vér fyrst hve hátt hann er hafinn yfir aðra; þá sjáum vér fyrst að hann hefir haft eitthvað við að stríða, eitthvað að sigra, þá fyrst getum vér talað um siðferðislegt ágæti og dygðir hans, þá fyrst getur hann orðið

heyrt þær oft og tíðum. Þessi og önnur eins óhreinskilni er stórkostlega siðferðisspillandi og það sorglegasta við þetta er það, að fjöldinn af þessum mönnum þykist vera ákaflega kristinn, þykjast vera hinir einu sannkristnu menn. Trúin er þá orðin leikspil. En betra væri að þeir hinir sömu tryðu minna á Krist, en fylgdu honum betur, betur að þeir skyldu það málefni, sem þeir eru sannfærðir um að er rétt, en hitt, sem þeir eru sannfærðir um að rangt er.

Þá er og Kristur stór andans persóna, að því er lýtur að kærleika hans til alls mannkynsins. Sá kærleiki hans var svo hreinn og skær, sem silfurtær lind úr klettum ofan. En til þess að geta fyllilega séð kærleika Krist, þá hljótum vér að líta á tíma þá, sem hann lifði á. Hann lifði á tímum þegar allskonar kúgun og harðstjórn ríkti í heiminum. Þegar einvaldskonungarnir tefldu skák og höfðu þjóðirnar fyrir peð, þegar bræðrafélög voru hið sama og morðfélög, þegar heil héruð voru rænd og rupluð eingöngu til þess, að skreyta hallir höfðingja og konunga. Menn voru herteknir þúsundum saman og stjórnendur landanna höfðu útsölu á þeim, til þess að græða fé til svalls. Á þessum tíma kom Kristur fram og hóf baráttuna móti öllum slíkum félagsskap, móti öllum slíkum harðstjórum, móti allri þessari kúgun, móti öllu því, er hindraði andlegan og siðferðislegan þroska mannkynsins. Þarna stóð hann einn uppi og hóf þessa baráttu.

Sannarlega var Kristur stór andans maður. Fyrir mönnunum lág þá til úrlausnar sama spurningin og liggur enn þann dag í dag, nefnilega sú, að jafna kjör mannkynsins, að jafna stéttirnar, jafna fjárhaginn, spurningin, að eyða hatrinu og fjandskapnum, þessari voðalegu grimd og heift og kúgun, að koma á því skipulagi, að menn gætu allir lifað saman, sem ein familía, hverrar þjóðar eða hvers kyns, eða hverrar stéttar sem menn væru. Menn geta nú sagt, að Kristur hafi þar ekki allstaðar farið rétt, svo sem það er snertir samband manns og konu í hjónabandinu, því að hann vildi sem allir aðrir austurlandamenn, láta konuna vera undirgefna karlmanninum, en nú er mikill þorri hinna kristnu manna kominn á aðra skoðun, og hann talaði aldrei á móti þrælahaldi, en hefir álitið það svo sem sjálfsagt. En að því undanteknu var Krystur byltingamaður og sósíalisti. Hann sá það, að hið eina ráð, hið eina meðal til þess að leysa þessa flækju mannfélagsins, var ekkert annað en kærleikurinn. Það var hann sem átti að sigra þetta alt saman.

Kristur var einn af þeim fyrstu eða sá fyrsti, er kendi mönnum að bera virðing fyrir sjálfum sér. Hann sagði að í manninum byggi neisti guðdómsins, það þyrfti að eins að anda eða blása á þenn-

an neista og þá yrði hann að björtum loga, þá kæmi í ljós hin andlega fegurð mannssálarinnar. Guð býr í öllum mönnum, sagði hann guðs ríki og andi réttlætisins býr í hverjum einasta manni. Það er ef til vill að eins lítið frækorn, en ef andi kærleikans blæs á það, þá þroskast það og tekur vexti og viðgangi. Það var þessi hugsunarháttur Krists, sem olli því, að hann svo auðveldlega gladdi hinn sorgbitna, hughreysti hinn ístöðulitla, styrkti hinn veika og gaf hinum vonlausu og örvæntingarfullu nýjan dug. Þeir fundu þennan anda kærleikans út frá honum ganga, og hann blés á guðsneistann í sálum þeirra, svo að hann varð að björtum loga. Þessi andi kærleikans olli því, að Kristur fyrirleit engann; hann hughreysti jafnt háa sem lága, fátæka sem ríka. Þetta gefur mönnum að skilja hvernig á því stóð, að Kristur reiddist ekki, sýndi engum hatur eða ofstæki. Þegar hann reiddist þá var það við spillinguna, hræsnina, við Faríseana. Það var sannleikurinn, sem reiddist við hræsnina og undirferlina og lygina, og þess vegna varð hann svo bitur þar. Hann hefði ekki verið eins stór persóna og hann var, ef að hann hefði ekki reiðst í þeim tilfellum. Yfir Fariseana hellir hann því ásökunarorðum, en það sem hann var að ásaka þar, var spillingin, hræsnin hjá mönnunum.

Öðru máli var að gegna um syndarana, þeim hratt hann ekki frá sér, hann skammaði þá ekki eins og hina, heldur sagði þeim að bæta ráð sitt, hann huggaði þá þegar þeim ógnaði byrði synda sinna. "Statt upp og gakk, þínar syndir eru þér fyrirgefnar," sagði hann. Hann snertir hinn guðdómlega neista í manninum og vekur hann upp til starfs og framkvæmda. Það er ekki til neins að gráta og ausa höfuð sitt ösku og slíta hár sitt, eymdirnar afplánast ekki fyrir það, eina ráðið er að hætta að syndga og fara að ganga á nýjum og betri vegum.

Þá er enn eitt sem gerir Krist stóra andans persónu, en það er hve fast hann fylgdi fram lífsstefnu sinni, hugsjón þeirri sem hann hafði sett sér í lífinu, það var engin hálfvelgja hjá honum. Hann setti sér fyrir mark og mið að reyna að bæta mannkynið, að koma inn hjá mönnum kenningum, sem gerðu þá að betri mönnum, að vinna að því að sannleikurinn og réttlætið ríkti á jörðunni. Hve mjög er hann ekki að þessu leiti ólíkur mörgum manninum nú á dögum. Það eru margir sem hafa hina og þessa hugsjón, hina og þessa hugmynd, sem þeir vilja koma fram eða fá viðurkenda, en hve smásálarlega ferst þeim ekki oft og tíðum, þeir kunna að selja hugmyndina fyrir einn eða tvo dollara fyrir hylli eins eða annars. Menn verða ánægðir ef að þeir hafa eitthvað að éta og drekka, ef að

þeir rétt að eins geta dregist fram í gegnum lífið, en hugmyndirnar miklu sem þeir höfðu í æsku, um að koma einhverju góðu til leiðar, þær fara allar út um þúfur, og má segja að þær lendi allar í munni og maga. En að leggja eitthvað í sölurnar fyrir hugsjónir sínar, fyrir það sem maður álítur sannast og réttast, um það er ekki að tala. Þannig er alt of mörgum varið nú á tímum, en þannig var ekki Kristi varið. Ef að vér allir tækjum oss Krist til fyrirmyndar í þessu, þá er það víst að vér gætum komið mörgu og miklu góðu til leiðar. Svo hefir það æfinlega verið í sögu mannkynsins, að þar sem menn hafa fengið augun opin fyrir þessari andans göfgi Krists, þá hefir það haft stórmikil áhrif á menn; menn hafa fundið hve mjög þeim hefir verið ábótavant í þessu og augu þeirra hafa opnast fyrir því, hvað þeir gætu gert ef að viljinn væri góður og staðfestan og úthaldið eða þolgæðið væri nóg. Ef að vér lítum til Krists, hvernig hann varði öllu lífi sínu til þessa, til þess að fylgja fram hugsjónum sínum, hvernig hann þoldi háð og spott, smánanir og dauða, þá fyllir það menn eldlegu fjöri og áhuga. Menn sjá þá að þeir þurfa að starfa; það má ekki leggja árar í bát, heldur ganga fram með áhuga og kappi. Og hver einn maður sem hefir einhverja lífsstefnu hann verður því göfugri og andlega hærri sem stefnan er fegurri.

Það sem vér því ættum að læra af Kristi, er að fylgja fram því sem er göfugt og gott, að standa fast við sannfæring vora, að efla kærleikann í heiminum. Það er hin eina og rétta Kristsdýrkun. Það er dýrkun sem færir oss blessun í bráð og lengd.



# Garrison í himnaríki.

Eftir

## William Denton.

M. P. þýddi.

---

Framhald.

Þeir voru nú staddir að eins fáar mílur frá hásætinu og í draum mínum sá ég leiðsöguengilinn fylgja Garrison í gegnum fylkingarnar, fram hjá hinum 144,000 einsetumönnum, öldungunum og dýrunum. Festi hann fyrst augnaskýlu á enni honum svo augu hans þyldu betur hinn ómræðilega dýrðarljóma sem geislaðist frá hásætinu. Fyrir aftan hásætið var afarstór pípa eða hólkur og lág hún fast upp að eyra guðs.

"Þarna færðu að sjá nokkuð, sem þér mun þykja gaman að,"

öskraði leiðsöguengillinn í eyra Garrison, um leið og hann benti honum að koma að pípunni. Heyrðust sífelt í henni org mikil og óhljóð, líkt og ógurlegasta hafrót.

"Hvað getur þetta verið?" spurði Garrison. "Þetta er enn þá óskiljanlegra org og ólæti heldur en hjá dýrunum og öldungunum."

"Þetta er bænapípan," svaraði leiðsöguengillinn. "Í gegn um hana eru allar bænir leiddar frá jörðunni til himna."

Ég sá að Garrison hlustaði með hinni mestu athygli og hafði hann hlustað þar æðilanga stund, áður en hann gat greint orðaskil. Um síðir tókst honum þó að aðgreina hinar ýmsu bænir jafnóðum og þær stigu upp. Mátti þar heyra bænir um regn og bænir um þurt veður frá hínu sama héraði. Rómversk-kaþólskir klerkar báðu um peninga til þess að byggja fyrir kyrkjur og skóla, og prótestantaprestar báðu um fé til þess að senda út trúboða meðal kaþólskra manna og snúa þeim frá villu þeirra vega. Bænir bindismanna: "ekkert vín," og bænir drykkjumanna: "meira vín," stigu hvorttveggja upp jafnharðan, Virðingagjarnir hermenn æsktu stríðs og styrjalda og friðsamir bændur og búalið báðu um almennan þjóðafrið. Gamlar meykonur báðu drottinn að gefa sér eiginmenn, og giftir menn báðu guð að losa sig við skapillar, ófrjósamar eiginkonur, og giftar konur báðu að sínu leyti eins heitt um lausn frá drykkfeldum, illræmdum eiginmönnum.

"Gef oss hlýrra veður, ó drottinn!" hrópaði sorgbitin ekkja í angistarróm, "því annars deyja litlu börnin mín, því ég hefi ekkert eldsneyti til að hita með kofa minn."

"Gef oss kaldan nístandi vetur," hrópuðu kolanámumennirnir svo að kol hækki í verði og oss verði betur borgað erfiði vort, svo vér getum forðað konum vorum og börnum frá hungri."

"Gef oss þurt veður, svo að tóbaksakrar vorir ónýtist ekki," báðu Connecticut-bændurnir, "því það er hinn eini framfærsluvegur fyrir oss og fjölskyldur vorar.

"Ó guð, lát þú tóbaksplöntuna visna hvar sem hún er gróðursett," hrópaði tóbakshatarinn, "og sendu þessa djöflarót til sinna eigin heimkynna, þar sem reykjarsvælan stígur upp að eilífu."

Hér um bil einni bæn af millíón var ef til vill einhver gaumur gefinn; allar hinar voru látnar sem vindur um eyru þjóta, líkt og þegar aukagufu er hleypt út um öryggispípu á gufuvél.

"Brettu upp ermar þínar, ó drottinn, og sýndu syndurum mátt þinn," var nú hrópað upp um bænapípuna.

"Þetta hlýtur að koma frá bænafundi meþódista," mælti Garrison; "þeir virðast ímynda sér guð sem stóran og sterkan slagsmála-

bróður, sem æfinlega geti barist fyrir þá, ef þeir að eins geti fengið hann til að bretta upp ermar sínar, og búa sig undir bardagann."

"Stíg niður til vor, ó drottinn, og auk þar með vald þitt og ríki," þegar Garrison heyrði bæn þessa, gat hann ekki stilt sig um að brosa, og leiðsöguengillinn rak upp skellihlátur.

"Hvaðan heldurðu að þessi bæn komi?" spurði leiðsöguengillinn; og án þess að bíða eftir svari, hélt hann áfram: "Ég skal sýna þér það." Snerti hann þá augu Garrisons, og varð honum þá eins og ósjálfrátt að horfa í vissa stefnu niður til jarðar, og sá hann vesallegan mannræfil í litlu þorpi í Kansas-ríki, og hafði hann beðið bænar þessarar.

"Þvílík hugmynd! Að ætlast til að guð fari niður þangað til að auka vald sitt og ríki!" mælti leiðsöguengillinn með háðbrosi.

Þeir gengu nú nokkra stund til og frá kríngum hásætið og hlýddu á sönginn og skoðuðu hörpur englanna.

"Hver er þessi rauðnefjaði gamli maður?" spurði Garrison, "með kórónu á höfði og langt hvítt skegg, sem leikur svo yndislega vel á þessa afarstóru hörpu?"

Ég furðaði mig ekkert á svarinu: "Það er Davíð konungur; það er ekki að furða þótt honum leiki vel list þessi nú orðið; hann lék þegar vel á hörpu sína er hann var á jarðríki, og síðan hefir hann ekkert annað gert, nú í nær 3000 ár."

Nálægt honum var móleitur náungi, líkur því sem ég hafði hugsað mér tröll, og barði hann trumbu eina feikimikla. Í staðinn fyrir hálsbandsnæli hafði hann ákaflega stórt gullbúið kjálkabein, og prik það er hann barði trumbuna með, var einnig í kjálkabeinslögun. Virtist sem verk þetta væri honum mjög hugðnæmt. Komst ég að því síðar, að þetta var Samson gamli, sem lagði fleiri að velli með kjálkabeini, en nokkur annar maður hefði getað gert með Winchester-byssu.

Í grend við Samson sá ég vændiskonuna Rahab, sem horfði á með köldu blóði, að menn og konur í borg sinni væri strádrepið niður, án þess að gefa því hina allra minnstu aðvörun. Þar var Judith sem hjó höfuðið af Holofernes; þar var einnig hórkonan Bathsheba, og sonur hennar, fjölkvænismaðurinn Salomon. Og þetta voru hinir helstu höfðingjar og vildarfólk guðanna.

"Jæja," mælti Garrison eftir nokkra stund í léttum og glaðlegum róm, "ef mér er ætlaður hér framtíðar-bústaður, þá langar mig til að spyrja enn nokkurra spurninga um Himnaríki og íbúa þess. Í fyrsta lagi langar mig til að vita hvers vegna þið hafið hér varnargarð alt umhverfis. Þess konar virki eru venjulega reist annað-

hvort til að útiloka eða inniloka illgerðamenn. Annaðtveggja þetta hlýtur að vera áformið með virkisgarði þessum."

"Þú ert mjög einkennilegur maður," mælti leiðsöguengillinn; "spurningar þínar og athugasemdir ern einkennilegar. Ég hefi engum öðrum vísað hér leið, sem hefir líkst þér að þessu. En Pétur bauð mér að gefa þér allar þær upplýsingar, sem þú óskaðir, og ef hann kærir sig ekkí um að dylja þig neinu, þá ætti mér að standa á sama. Þú hefir eflaust heyrt þess getið, að eitt sinn, fyrir ómuna löngu síðan, var hér uppreist ger. Og það get ég sagt þér með sanni, að frelsisstríð ykkar í Bandaríkjunum var að eins barnaleikur í samanburði við uppreistina hér. Hinn mikli erki-fjandi, sem þú hefir heyrt svo mikið um, varð yfirstíginn, og honum varpað niður í hið vellandi dýki, og eftir það var varnargarðurinn reistur."

"Eruð þið þá hræddir við," spurði Garrison, "að djöfullinn reyni aftur að brjótast inn í Himnaríki?"

"Ef til vill," svaraði leiðsöguengillinn. "Það er að minnsta kosti ætíð best að vera við öllu búinn. Íbúatala Helvítis er svo afarmikið meiri en íbúatala Himnaríkis; djöfullinn fær venjulega tíu á móti hverjum einum, sem hingað kemur, og því verður ekki neitað, að fjöldinn af þegnum Helvítis eru hraustir og hugdjarfir og hinir mestu vitmenn. Þangað fara engin börn, fábjánar eða hugbleyður. Til þess að syndga, útheimtist talsvert vit og þekking, og stórsyndarar eru venjulega gæddir hinum bestu hæfileikum. Og afleiðingin af þessu er sú, að styrkur óvinarins eykst voðalega með degi hverjum, og komi hér fyrir uppreist í annað sinn, þá er útlitið ekki gott, þar sem á móti yrðu, ekki einungis uppreistarflokkur innanveggja, heldur einnig jafn-sterk fjandafylking að utan."

Andlit Garrisons varð hálf kýmileitt við þessa frásögu.

En leiðsöguengillinn hélt áfram og mælti: "Það er ekki ólíklegt að guð neyðist til að rýmka eitthvað til með inngönguskilyrði til Himnaríkis, ef hann á að halda ríki sínu. Bendir hérvist þín heldur í þá átt."

"Mér þætti gaman að vita hvar kvennfólkið er," mælti Garrison "ég hefi séð að eins sára fáar konur hér."

"Himnaríki er mjög stór borg," svaraði leiðsöguengillinn, þú hefir enn séð að eins lítinn hluta þess. Borgin er 1500 mílur á lengd og 1500 mílur á breidd. Telur hún innan sinna takmarka milliónir húsa og billiónir herbergja. Er hér langtum fleira af börnum en uppvöxnu fólki. Og þar sem nú engin þroskun á sér stað hér, þá gefur að skilja að við höfum þúsundir millíóna af börnum, og þarf eðlilega milliónir af konum til þess stöðugt að hjúkra þeim og að-

stoða; eru það einkum meykerlingar sem notaðar eru til þess starfa. Þær höfðu engan eiginmann til að þjóna á jarðríki, og því hlotnast þeim sú virðing að þjóna drotni er þær koma hingað. Og ef þær höfðu peninga, arfleiddu þær æfinlega kyrkjuna eða þjóna drottins að eignum sínum, og hlið Himnaríkis eru æfinlega opin fyrir þeim sem það gera. Margar þeirra eru upphafðar í hinn heilaga söngflokk er þær hafa starfað nokkurn tíma sem barnfóstrur."

"En giftast ekki þessar meykerlingar eftir að þær koma hingað?" spurði Garrison.

"Nei, því fer fjarri," svaraði leiðsöguengillinn. "Hér eru svo miklu fleiri konur en menn, að ef giftingar væru leyfðar, yrði það efalaust hið mesta óánægjuefni, og gæti ef til vill orðið til þess að að mynda hér nokkurskonar Helvíti. Menn eru hér ekki allskostar ánægðir eins og nú er, og mundi slíkt auka stórum óánægjuna."

"Enn ein spurning," mælti Garrison; "ég dáðist mjög að hurðunum fyrir inngöngudyrum Himnaríkis; hvaðan koma perlur þær, sem notaðar eru í þessar hurðir?"

"Þessar perlur," svaraði leiðsöguengillinn, "eru af fiskum, sem veiðast og eru alsettir perluskeljum. Vér köllum það kristal-sjó, sökum þess, að yfirborð hans breyfist aldrei; þar rís aldrei nokkur alda. Skelfiskar þessir eru stærri, en þú munt geta gert þér hugmynd um; sumir þeirra eru míla á lengd, og eru skeljar þeirra 10—20 feta þykkar. Þegar oss langar til að ná einum af fiskum þessum, setjum vér stórar vélar á fljótsbakkann; þegar svo einn af fiskum þessum opnar skelhúð sína, þeytum vér út stálkrók miklum, sem læsir sig fastan innan undir húðinni; er járnfesti mikil fest við annan enda króksins; svo vefst járnfestin upp á ás í vélinni, þar til fiskurinn er dreginn á land. Úr perlunum eru svo gerðar hurðirnar, sem þú sást, borð, stólar, hásæti fyrir hina mörgu konunga, sem hér eru, auk ýmislegs annars. Skeljarnar eru fægðar að utan, og búnir til úr þeim skemtibátar og fara hinir heilögu oft skemtiferðir á þeim um kristal-sjóinn. Það var þess konar skemtibátur, sem við fórum á yfir fljótið."

"Notið þið nokkuð af fiskum þessum annað en skelina og perlurnar?" spurði Garrison enn fremur.

"Vitaskuld, við borðum þá og þykir hin besta fæða, og muntu fá að reyna þá bráðum, er þú tekur máltíð," svaraði leiðsögu-engillinn.

"Þurfið þið að borða hér eins og dauðlegir menn?" spurði Garrison.

"Já, auðvitað þurfum við þess," var svarið. "Heldurðu kan-

ske að alt þetta fólk geti sungið og leikið á hljóðfæri sín endalaust án fæðu og hvíldar? Það eru hér þrír söngflokkar; leysa þeir hver annan af hólmi á vígsl. og verður hver flokkur að halda uppi söng og hljóðfæraslætti viðstöðulaust átta kl.stundir í einu. Ef nokkurntíma yrði uppihald á söngnum, þótt ekki væri nema að eins litla stund, þá mundu kvalavein hinna fordæmdu, sem berast hingað með golunni, raska ró hinna heilögu. Þegar þessir söngflokkar eru búnir að vinna sínar 8 kl.stundir hvíldarlaust, eru þeir hungraðir sem úlfar, og er þá æfinlega til reiðu handa þeim máltíð í borðsal Himna ríkis. Skelfiskar, ávextir af lífsins trénu og annað fleira gómsæti, miklu betra en jarðarbörn geta veitt sér, er þar ætíð til reiðu handa þeim, og svo fær hver að drekka vín af lyst, og býr Kristur það til sjálfur. Þegar svo söngmennirnir hafa satt hungur sitt og þorsta, sofa þeir í átta stundir, og eru síðan reiðubúnir að ganga að verki sínu aftur."

"En ég skil ekki," mælti Garrison, "hvar þið fáið eldsneyti til að sjóða við fæðuna handa öllum þessum aragrúa."

"Ég get fullvissað þig um, að við höfum mjög lítið fyrir að viða að okkur eldsneyti," svaraði leiðsögu-engillinn drýgindalega. "Helvíti er hinn heitasti staður sem til er; er það ekki langt hér frá, og notum við hitann þaðan á mjög merkilegan hátt. Gullnar hitaleiðslupípur hafa verið lagðar héðan til undirdjúpa Helvítis, sem brennisteins sýra ekki getur sakað; leiðum við hitann eftir þessum pípum alla leið frá Helvíti og upp í eldaskála Himnaríkis. Þú hefir efalaust séð í ritningunni, 'að guð skapi reiði mannsins sér til dýrðar'; má það til sanns vegar færa meðal annars með því, að sökum reiði mannsins, er eldur Helvítis nauðsynlegur, og við hitann af þessum Helvítis-eldi, eru máltíðir hinna heilögu tilreiddar, og syngja þeir fyrir það drottni lof og dýrð um aldir alda."

"En er ykkur ekki kalt á vetrum hér úti skýlislaust?" spurði Garrison.

"Hér er enginn vetur," svaraði leiðsögu-engillinn; "hitinn frá Helvíti temprar svo mátulega loftslagið, að hér er eilíft vor, og blómin gróa hér ætíð. Þú hefir ef til vill lesið þessar fögru hendingar eftir eitt guðhrætt, kristið skáld:

"Hér ávalt ríkir eilíft vor,
og aldrei blómin fölna."

Þetta skáld vissi auðvitað ekki, að það er að þakka hitanum frá Helvíti, að við höfum hér sífelt vor."

"Ég get hugsað mér," mælti Garrison, "að þeir sem verða að vinna hér á nóttuni, séu ekki allskostar ánægðir".

"Hér er engin nótt, minn góði vinur," svaraði leiðsögu-engillinn. "Dýrðarljómi guðs er okkar sól, sem aldrei gengur til viðar."

"En það getur tæplega verið allskostar þægilegt fyrir hina heilögu, er þá langar til að sofa," mælti Garrison.

"En við getum hæglega gert nótt úr sólbjörtum degi fyrir þá, er þess óska, hvenær sem er," svaraði leiðsögu-engillinn. "Þú hefir tekið eftir því, að hús hér öll eru ákaflega há, og til þess að bera þá afar þyngd er lægrihluti allra byggingaveggja hér hafður ákaflega þykkur. Hús hér eru þannig ger, að í hægri-pörtum hvers um sig, eru herbergi sérstök til þess að sofa í; eru þar vel feldir hlerar fyrir gluggum, sem hvorki birta, söngur himnaríkis eða vein Helvítis geta borist í gegnum; er þar hið bezte næði til svefns."

"Hvaðan fáið þið allar þessar sönghörpur, sem hér er leikið á?" spurði Garrison.

"Ég skal sýna þér það einhvern tíma síðar," svaraði leiðsögu-engillinn. "Það er hér ákaflega stór hörpu-verksmiðja; vinna þar stöðugt svo þúsundum manna skiftir. Miljónir af hörpum eyðileggjast árlega bæði af slysum og eyðslu. Er gullið af þeim brætt upp, og það notað aftur á aðrar hörpur."

"Þið starfið þá sitthvað annað hér í Himnaríki," mælti Garrison.

"Já, auðvitað gerum við það," var svarað. "Án þess væri vitaskuld ómögulegt að fullnægja þörfum jafn-stórrar borgar og Paradís er. Það eru annars mjög margir, sem hafa skakkar hugmyndir um tilveruna hér, er þeir koma hingað fyrst. Sönglist og hljóðfæraslåttur er langt frá því að vera hið einasta starf hér. Hér eru margskonar starfsgreinir. Námamenn eru hér sífeidlega að verki að grafa upp gull; því til þess að viðhalda sfrætunum hér í góðu lagi, útheimtist ekki all-lítið af þeim málmi. Skraddarar hafa hér nóg að starfa við tilbúning tískuklæðnaðar karla og kvenna. Og þá er hér ekki síður ærið að starfa fyrir þvotta konur. Það er ekki fyrirhafnarlaust, að halda skykkjum vorum síieldlega mjallhvítum, því þótt þú hafir eflaust heyrt, að Þær séu hvítfágaðar í blóði lambsins, þá á það að eins lítinn þátt í hreinleik þeirra. Margir gull og silfursmiðir vinna hér við að búa til kórónur, því í Himnaríki er fjöldi konunga, þótt þeir beri þess lítil merki önnur en kórónuna. Margir hinna jarðnesku klerka eru einnig býsna drambsamir og aftaka með öllu að vera hér kórónulausir. Ef þig langar til, þá skal ég sýna þér kórónu-herbergið og sýna þér nokkrar þeirra, sem við höfum þar tilbúnar."

Að svo mæltu fylgdi leiðsögu-engillinn Garrison inn í stórt herbergí; héngu þar margar kórónur til búnar handa þeim, er verð-

ugir væru að bera þær. Lagði um alt herbergið skínandi birtu af gulli og gimsteinum.

"Þetta er fremur barnaleg starfsemi," varð Garrison að orði, er hann hafði horft um stund á þennan höfuðskrúða.

"Ég býst við þér finnist svo," svaraði leiðsögu-engillinn; "og satt að segja er ég heldur ekki neitt hugfanginn af því; en tilfellið er, að hér er aragrúi af fólki, með mjög barnalegum tilhneigingum, sem ekki verður komist hjá að gera til geðs."

Rétt í þessu heyrðist skrölt mikið og glamrandi úr áttinni frá hásætinu. Garrison snéri sér við til að skyggnast eftir hvað um væri að vera, og sá hann þá, að sæti hinna 24 öldunga voru auð, en þeir allir skríðandi á fjórum fótum eftir gangstéttinni framundan hásætinu, og voru í óða önn að basla við að týna upp gimsteinana af kórónum sínum, og hentu þeim svo niður aftur eins og til svars, í hvert skifti sem dýrin ráku upp öskur. Þegar Garrison sá þetta og mintist þess jafnframt, að samkvæmt hinni heilögu opinberunarbók ritningunnar, hefir þessi iðja verið stöðugt tíðkuð dag og nótt um óteljandi aldir, þá varð honum að orði:

"Já, þetta er í sannleika barnaskapur. En er aldrei kyrð í Himnaríki? Alt þetta hávaðaskvaldur og ólæti sýnist ekki vera gert til annars en þess, að hér skuli aldrei vera kyrt eitt einasta augnablik. Ég fyrir mitt leyti er sannfærður um, að ég get aldrei felt mig við þetta skvaldur."

"O, jú," mælti leiðsögu-engillinn· "Þú þolir það nú þegar furðu vel, og eftir nokkurn tíma þegar þú hefir vanist því, mun hávaðinn hér alls ekki ónáða þig."

Garrison brosti dálítið háðslega. Eftir nokkra stund snéri hann sér svo aftur að kórónunum í herberginu og mælti:

"Sumar af þessum kórónum hafa enga gimsteina, en aðrar, aftua á móti, glitra allar af gimsteinaskrsuti; hvers vegna er þessi mismunur ger?"

"Gimsteinarnir tákna sálir þær er eigendurnir hafa frelsað", svaraði engillinn. Fyrir hverja frelsaða sál er bætt við einum gimstein. Hinir miklu ferða-prédikarar (*revivalists*) eiga, eins og þú getur skilið, í vændum hinar fegurstu kórónur. Þessi (um leið og hann handlék eina kórónuna) er ætluð prédikaranum Moody, sem þú hefir eflaust séð."

Kóróna þessi var turnmynduð að lögun og alsett hinum fegurstu gimsteinum.

"Og fyrir hvað hefir hann verðskuldað kórónu?" spurði Garrison. "Kóróna mundi sóma sér álíka vel á höfði hans eins og tísku-

legur kvennhattur á apahaus! Ég efast raunar ekki um, að hann sé fullkomlega ráðvandur, en hann er óumræðilega mentunarlaus, og hjátrúarfullur sem blökkumaður."

"Það er satt," svaraði leiðsöku-engillinn, "að því leyti sem snertir veraldlega þekking; en hann hefir næga þekking til að vera þess um kominn, að frelsa villufarandi sálir; og það er sú þekking sem er mest áríðandi; að minsta kosti er það það, sem mest vegur er hingað kemur."

"En hvernig vitið þið hve marga gimsteina kóróna hans verðskuldar, þar sem hann er enn á lífi."

"Það skal ég segja þér. Það eru spámenn á jarðríki, sem geta sagt fyrirfram hvernig líkindi eru til að veður verði næsu 48 kl.st. En við höfum hér spámenn, sem geta sagt, og það með vissu, hvað ske muni um næstu ára-tímabil. Spámenn þessir geta sagt oss með áreiðanlegri vissu, hvað margar sálir hver og einn muni frelsa; og þess vegna getum við smíðað að öllu leyti kórónur þessar, og með hæfilega mörgum gimsteinum, löngu áður en þeir, sem þær eru ætlaðar, hafa endað sitt jarðneska líf."

"Eru ekki stærri gimsteinar en þetta hafðir í sumum kórónunum?" spurði Garrison enn fremur. "Í kórónu Moody's t. d. eru flestir gimsteinarnir lítið stærri en sandkorn. Ef steinarnir væru hver um sig stærri, þótt þeir væru ekki svo margir, þá mundi það auka stórum prýði kórónunnar."

"Það er öldungis rétt mælt," svaraði leiðsögu-engillinn. "En stærð gimsteinanna á að tákna stærð eða verðleik sálna þeirra, sem frelsaðar hafa verið. Allar þær sálir, sem Moody frelsar, eru smáar og lítils virði, þess vegna eru gimsteinarnir í kórónu hans svo undur litlir. Eins og þú veist, fær hann engu til leiðar komið hjá skynsömu fólki með heilbrigðri dómgreind. Þess konar fólk virðist ætla að vegna þess, að ræður hans eru heimskulegar og ályktanir hans ósanngjarnar, þá hafi þeir rétt til að neita gildi þeirra. En því heimskulegri eg ósanngjarnari sem slíkar ræður eru, því áreiðanlegri er sáluhjálpin; því að sú trú, sem getur tekið á móti og viðurkent slíkar prédikanir, án þess nokkurn tíma að efast um heilagt sannleiksgildi þeirra, þess konar trú, segi ég, kemur aldrei til hugar að til sé neitt ómögulegt."

Ég tók eftir að Garrison snéri sér nú hvatlega að leiðsögu-englinum, og horfði á hann fast og alvarlega, eins og vildi hann vita, hverskonar sál það væri, sem framleitt gæti slíkar skoðanir. Um síðir hélt Garrison áfram:

"Hafið þið einnig tilbúna kórónu handa Joseph Cook?"

"Auðvitað; ég skal sýna þér hana," svaraði leiðsögu-engillinn, og um leið tók hann niður af herbergisveggnum ákaflega stóra kórónu, var hún álíka umfangsmikil eins og skeffu-mælir.

"Hvaða dæmalaust kerald," varð Garrison að orði, "hvað hefir þessi stærð að þýða?"

"Flavius Josephus Cook gerði sig ekki ánægðan með neitt minna," svaraði leiðsögu-engillinn.

En á þessari kórónu var ekki einn einasti gimsteinn, og í draum mínum furðaði ég mig mjög á því. — Að lítilli stundu liðinn hélt leiðsögu-engillinn áfram:

"Ég sé að þig undrar, að engir gimsteinar eru á þessari kórónu; fagrir gimsteinar mundu auka mjög prýði hennar. — Eins og ég skýrði þér frá áðan, þá táknar hver gimsteinn, sem á kórónuna er settur, frelsaða sál. En það er einnig að hinu leytinu eins föst regla að fyrir hverja sál, sem glatast fyrir beina afleiðing orða eða gerða þess, sem kórónuna á að bera,—fyrir hverja slíka glataða sál verður einum gimsteini færra á kórónu hans. Spámenn Himnaríkis hafa sagt svo fyrir, að Cook muni, áður en hann deyr, gefa sig svo mikið að andatrú og veraldlegum vísindum, að hann á þann hátt verði orsök í glötun fult eins margra sálna eins og hann hafði áður frelsað. Og þess vegna, þrátt fyrir hið afarmikla starf hans, verður hann er hingað kemur að gera sig ánægðan með gimsteinalausa kórónu."

"Ég hefði gaman af að sjá kórónu þá, sem ætluð er Dr. Talmage," mælti Garrison; "þið hljótið að líkindum að ætla honum eitt af þessum höfuðdjásnum." En mér til hinnar mestu undrunar sá ég að leiðsöguengilinn setti dreyrrauðan við þessa spurning, og svaraði hann loks hálfstamandi:

"Ég verð að játa, að Dr. Talmage er prestleg halastjarna, og hafa spámenn vorir og stjörnufræðingar enn ekki getað mælt út að fullu göngu hennar. Esajas vann að því um nokkurn tíma með aðstoð Sir Isaac Newton's, sem vinnur hér í sambandi við þá starfsgrein; en þeim gengur æði erfitt að ráða braut hans Um tíma leit svo út, sem hann mundi fá kórónu þéttsettari gimsteinum en nokkur annar, en eins og nú er komið, er það mjög efasamt, hvort hann fær auk heldur nokkra kórónu. Mitt hugboð er, að ef hann annars fær inngöngu hér, þá muni þar skella hurð nærri hælum."

Þá Garrison og leiðsöguengilinn var nú farið að svengja, því að undanteknum nokkrum aldinum og vatni, höfðu þeir ekki nærst á neinu um langan tíma. Þeir héldu nú leiðar sinnar eftir hinu breiða og fagra Paradísarssræti, þar til þeir komu að mjög skrautlegu matreiðsluhúsi; gátu þar borðað tíu þúsund manns í einu.

"Þetta er eitt af borðhúsum söngmannanna," mæltl leiðsöguengillinn, "og getum við fengið okkur hér eitthvað gómsætt til næringar." — Þegar þeir komu inn í borðsalinn, sá ég leiðsöguengilinn horfa með drambsemislegri velþóknun í kring um sig og síðan til Garrisons, eins og hann ætlaðist til að hann yrði hugfanginn af þessu dýrðlega skrauti. En öll sú dýrð virtist ekki hafa hin minnslu áhrif á Garrison, og kom mér til hugar, að voða-sjón sú, er hann hafði séð fyrir skömmu, hefði gagntekið svo huga hans, að hann gæti tæplega um annað hugsað. Og ég sannfærðist nú bráðlega um þetta, er þeir gengu eftir einu af hinum breiðu og fögru anddyrum og Garrison spurði, án þess að lyfta augum frá gólfi :

"Hvað heitir fjall það, sem blasir hér við, og sýnist að rísa beint upp úr hvaladýkinu ?"

"Það er alls ekki fjall," svaraði leiðsöguengillinn. "Það er reykháfur Helvítis, eða hins botnlausa dýkis, sem sumir kalla það."

"Reykháfur Helvítis!" endurtók Garrison með undrunarsvip. "En hvers vegna var þessi reykháfur bygður svo ákaflega hár ?"

"Ég get fullvissað þig um, að hann er alls ekki óþarflega hár," svaraði leiðsöguengillinn. "Eins og þú sérð, er ákaflega hátt hér upp að efstu gluggum, og kemur það stundum fyrir, að reykinn og óþefinn frá Helvíti leggur mjög nálægt efstu hallargluggunum hér ; en eins og þú skilur, mundi sjálft Himnaríki verða með öllu óþolandi, ef reykinn eða þefinn frá Helvíti legði hingað inn, og eini vegurinn til að koma í veg fyrir það, var að byggja reykháf slíkan sem þennan."

"Ég býst við að þú hafir rétt að mæla," svaraði Garrison. "En hvílík gríðar-bygging ! Veistu gerla um hæð þessa reykháfs ?"

"Hæð hans, frá yfirborði brennisteinsglóðarinnar, er 500 mílur, og hinir himnesku byggingameistarar segja, að hann nái tvisvar sinnum eins langt niður frá yfirborðinu, og er þá öll hæð hans 1500 mílur. Er hann bygður þannig, að honum er skift niður í vissa parta, og er hver partur hundrað ferhyrningsmílur."

"En hvers vegna var hann bygður svo langt niður fyrir yfirborð þessa dýkis ?" spurði Garrison.

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.
Ritstjóri : Magnús J. Skaptason.
686 Alexander Ave.
Féhirðir og afgreiðslumaður : Magnús Pétursson.
709 Alexander Ave. — Box 305.

Heimskringla Prtg. & Publ. Co.